# Auglýsing.

Eg álít það fyrir skyldu mína, hér með að tilkynna mínum elskudu Landsmönnum, þá mér, af Hans konúnglegu Hátign, þann 6ta Júnii þ. á., veittu miklu náð: að gefa mér lausn frá Stiptamtmanns yfir Íslandi og Amtmanns í þess Sudur-Amti, mér allranádugast fyrir-truúdu Embættum, eptir minni allraundirgefnast þar um gjørdu beidni, nú á míns alburs 76ta ári, sökum vantrausts á kreptum mínum að geta ferdast, sem mér þó bar, yfir landid, kénndi mig ecki

heils-

heldur mann til framvegis ad mæta þeim em-bættis þúnga, er eg, um rúm 40 ár, borid hefi. Min lausn frá þessum størfum, er skén i Kon-únglegrar Hátignar hærstmetandi Náð, med 800 rdla. árlegri Pension, án Rang- edur Pro-cento-skatts afmidlunar, er mér var ádur all-ranádugast eptirgéfinn, ad upphæd 190 rdlr. hvar vid bætist, ad mér er allranádugast veitt-ur frí bústadur og hús hér á Videy, samt leyft ad bera þá, Stiptamtmønnunum i Dana-Kóngs Ríkjum, tilskipudu Heidursklæda Einkunn; og loks er, til minnar stærstu ánægju, Syni mínum, Assessori Stepháni Stephensen, sama dag allranádugast veitt Amtmanns Embættid yfir Vestur-Amti Landsins, sem þar til álitnum verdugum og vel føllnum.

Ad mér, sem fyrsta innlendum Stipt-amtmanni yfir Islandi, hverjum Gull-medaillen Pro meritis hefir einum hér i landi af konúnglegri Hátign, þann 22ann Mart. 1786, allranádugast skeinkt verid, hafi af ein-

um

um vissum útlendum hvorutveggja verid mis-unnt, þad mun eptirtídin fullkomlega upplýsa. En prísa má eg vorrar mildu Ríkisstjórnar miklu réttvísi í því, einkis ad meta þessa, eda hans fylgjara, þeim til ílstillar æru gjørdu til-raun ad koma mér, ef møgulegt verid hefdi, í míns allramildasta Konúngs ónád, hvad þeim til þeirra, án efa, mikillar gremju, tókst ecki, þar réttvísin, sem stødugt hefir geisslad frá þeim danska Tróni, tillét ecki þeim á honum sat, ad gèfa gaum ad grundvallarlausum rógburdi þeirra, um einn sér og landinu trúann Embættis-mann.

Framar álít eg mig skuldbundinn, hér med opinberlega ad vidurkènna og þacka mínum kjæru Landsmønnum, hærri og lægri stèttar, sem allir kallast mega hafi borid mig sér á høndum, ad einum eda tveimur fráskildum, alla þeirra kjærleiksfullu audsveipni og staka velvild mér stødugt tjeda, í þau 50 ár, sem eg hefi þènad Fødurlandinu, í Løgmanns-Amtmanns- og Stiptamtmanns-Embætt-

um,

unt, þeirra á medal, samt ad gefa þeim þann, med stærsta rètti verdskuldada, vitnisburd: ad, sè þeim, af þeirra Yfirvøldum, stjórnad med skynsemi og gódfýsi, mun varla nockur Þjód audveldari finnast í uppfylling skyldu sinnar, enn sú íslendska, er framar gengst fyrir mildari, enn um of strángri Stjórn, hvørja sídari mannkjærleg Yfirvøld aldrei brúka, heldur í øllum sekum, jafnvel þeim tvísýnu, ætíd framar þá fyrstnefndu.

Videy, þann 4da Aug. 1806.

O. Stephánsson.